# Acta Yfirréttarins á Íslandi,

## fyrir árin 1756-1762.





Leirárgørdum vid Leirá, 1803.
Prentud á kostnad Sekretéra B. Stephensens,
af Factóri og Bókþryckjara Schagfjord.



Anno 1756, þann 13da Júlí, var Yfir réttur inn settur, undir Præsidió Lögmanns og konstitúerads Amtmanns M. Gíslasonar, med undirskrifudum Assessorum.

NUM. I.

Mætti í Yfir-rettinum Lögþingisskrifarinn S. Sigurdsson og fyrrum Sýslumadurinn B. Nikolausson og var þá fyrst upplesid þad, sem fyrir nærstlidins árs Yfir-retti var af nefndum málspartum framlagt, ad framfarid hefdi í Exekútions-máli því, er nefndur Sýslumadur B. Nikolausson hingad stefnt hafdi. Þar nærst framlagdi Lögþingisskrifarinn S. Sigurdsson Hierads-akt í þessu máli, genginn ad Leidvelli í vestur Skaptafells Sýslu þann 4da Októbr. 1755, med þar uppá afsögdum dómi þann 10da s. m, af Sýslumanni S. Stephánssyni, lesinn og markadur lit. K. Inn-

legg framlagdi Løgþíngis-skrifarinn af þessa dags Datô, í hvörju hann uppástendur: ad jafnvel þó hann hjer fyrir Yfirrettinn framleggi ádur áminnstann Hjerads-akt og dóm Sýslumanns S. Stephánssonar, hvad honum var uppálagt hjer fyrir seinast höldnum Yfirretti, ad Dóminum verdi í engu þar fyrir umbreytt, eptir svo mörg ár, sem lidin sen frá Dómsins dató, qvedst heldur ecki hafa vitad sig skyldugann ad antaka Sýslumannsins ástædur fyrir Exekútsíón-rettinum, þar hann hafi bædi forsómad ad framfæra þær fyrir retti Sýslumanns S. Stephánssonar, sem og, ad Dómi föllnum, ad átelja hann sama innan laga termíns. Ad síduslin uppástendur Løgþíngisskrifarinn: ad sá heili kontra-reikníngur, sem Sýslumadur B. Nikolásson uppsett hafi, se bædi prótesteradur af hans kontraparti, og sem ólögmætur undirkenndur af Yfir- og Undir-dómara, hafi því ecki kunnad af ser ad verda accepteradur, m. m., sem innleggid med ser ber, lesid og markad lit. L. Innlegg framlagdi Aktor, med hvörju hann framar vill sanna sínar ákjærur og Jretteſættelser móti Exekútsíóns-forrettníngu Løgþíngisskrifarans, lesid og markad lit. M. Ad síduslu mætti í Yfirrettinum Vice-lögmadur B. Marküsson, og deklareradi Sýslumadurinn B. Nikolásson: ad hann engar bætur eda málskostnad af honum prætenderadi; einúngis uppástód hann: ad Løgþíngisdómurinn kjæmi ser ecki til skada. Partarnir qváduſt eckert framar í málinu hafa ad framfæra, hvörs vegna þad

Þad var til Dóms upptekid, og hann þannig afsagdur:

Jafnvel þó Sýslumadur B. Nikolásson hafi bædi fyrir Løgþingis- og þessum Yfir-réiti uppástadid, ad hann med Exekútsión, eptir sér óauglýstum Hérads-dómi Sýslumanns S. Stephánssonar, hafi verid yfirfallinn, þá hefir hann þó vid nefnda Exekútsión byrjad ad giora skil fyrir þeim útlátum, er dómurinn uppástód, og á þann hátt viljuglega undirkastad sig Exekútsióninni, enn þó at hann, þegar ecki gat fullnægt dómsins innihaldi, hvørki vildi stilla Kautsión né gefa Anvisning til þess góts, er hann vildi, og sér ad skadminnstu hefdi mátt missa, og til dómsins fullnægju útláta; engu ad sídur bar þó Løgþingisskrifaranum, sem Exekútóre, til afdrag uppá dómsins innihald, ad acceptera þad, er Sýslumadur B. Nikolásson annadhvørt sannadi, eptir gengnum Hérads-dómi, edur partanna undangenginni játun, sig uppí tildæmda summu, sem exeqverast átti, ad hafa fullnægt eda borgad; því dæmist rétt:

Løgþingisskrifariñ S. Sigurdsson hefir á móti pródúcerudum domi Sýslumanns J. Sigurdssonar, og ødrum løg-gyldum ástædum, sem fyrir hans Exekútsións-ætt af álfu Sýslu-

manns B. Nikolássonar framkomu, exeqverad úr búi hans, til fullnustu þeirra 15 hundr. 87 álna á landvísu og 52 rdli. 4mk. í peníngum, þeirrar heilu summu Beløb, ad kluckunnar umsteypíngar kostnadi einúngis fráreiknudum, þar þó áttu af nefndri summu þar ad auki borgud ad álltast 6 hundr. 54 áln., og svo einasta til nefndrar. skuldar fullnnstu útleggjast góts ad verdaurum 9 hundr. 33 áln. á landsvísu og 15 rdlr. 2mk. kontant; hvi skal Klausturhaldarinn J. Thorlacius apturskila undir vyrdíngu þeirra vid Exekútsiónina verandi tveggja manna, svo miklu af góts sinu, sem þeir ofmikid útlogdu, nefnil. 6 hundr. 54 áln. í lausafé, og hafa þetta framqvæmt innan 6 vikna frá þessa dóms dató. Hvad Sýslumadur B. Nikolásson hefir sídan uppí þá, eptir fyrruefndum Sýslumanns S. Stephánssonar dómi, prætenderudu peninga-skuld borgad, kémur ecki þessum Rétti vid um ad dæma. Klausturhald-

ar-

arinn J. Thorlacius skal fyrir ólöglega málssókn fyrir Exekútsíons-réttinum, borga til Sýslumanns B. Nikolássonar 4 rdli. Krón., og Lögþíngisskrifarinn, fyrir sína Exekútsíons Forretning á gótsi Sýslumanns B. Nikolássonar, borgi honum 6 rdli. Krón. Þarámóti skal Sýslumaður B. Nikolásson borga til Lögþíngisskrifarans, fyrir grófar Beskyldninger og Irettesættelser bædi fyrir Lögþíngis- og Yfirréttinum, er ecki ega að koma vrknefndum Lögþíngisskrifara til Præjudice, 4 rdli. Krón. Allar þessar bætur skulu af hlutadegendum vera luktar innan nærstkomandi Michaelis-messu undir adför og Exekútsíón, og skal hér með Lögþíngis-dómurinn í þessu máli vera upphafinn og til síðu settur.

*Actum ut supra.*

M. Gíslason.

Ó. Stephánsson. B. Sigurdsson.
Þ. Magnússon. A. Jónsson.
Þ. Sigurdsson. G. Runólfsson.



D. Schéving. J. Arnason.
M. Kétilsson. P. Axelsson.
P. Gudmundsson. Haldór Axelsson.
Þorkell Þórdarson.

## Num. II.

Þann 14da Júlí mætti í Yfirrettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi Yfirrettar stefnu undir hendi og signeti Amtmanns M. Gíslasonar, dat. 19da Júlí 1755, med hvørri stefnist Løgmadur S. Sølvason til ad forsvara sinn yfir honum gengna Løgþíngisdóm af 17da Júlí 1755. Med sømu stefnu er høfudpartur sakarinnar Margret Þorgeirsdóttir stefnd, til ad heyra Sýslumannsins ástædur og Jrettesættelser henni á móti í sama máli, allt undir endilegann Yfirrettar-Dóm. Uppá stefnuna hefir Løgmadurinn skrifad þann 21ta Júlí 1755, en Margreti er hún fyrst byrt þann 1ta þ. m., sem uppáskriftirnar sýna. Stefnan lesin og merkud lit. A. Sýslumadur M. Ketilsson framlagdi Amtmannsins skickun til sin ad gánga í rett vegna Margretar Þorgeirsdóttur; skickanin lesin og merkud lit. B. Sýslumadur M. Ketilsson framfærir: ad jafnvel þó Margretu Þorgeirsdóttur ecki se Yfirrettar stefnan auglýst í tíma, heldur þann 1ta hújus, sem se offiuttur stefnu-frestur eptir løgum, þá vilji hann þó ecki vera orsøk í sakarinnar uppihaldi, heldur ánægdur med ad hún nú fyrirtakist. Var svo upplesinn Løg-

þing-

Þíngis Próſeſs í þeſſu máli, í hvørs ſlúttníngu Sýſlumadur E. Olafsſon er dæmdur frá ſínu Sýſlumanns embætti og í 20rdla útlát til Margretar Þorgeirsdóttur, fyrir yfir henni gengin Þjófs-dóm ad Túngu vid Skutulsfjørd þann 1ta og 2ann Júní 1750, eptir ſem ſá ſami Próſeſs og Dómur framar med ſer ber, leſinn og markadur lit. E. Kóngleat Privilegíum af 2um Maí 1755 útgefid Sýſlumanni E. Olafsſyni, uppá gyldugleika þeſs Þíngvitnis, ſem Sýſlumadur D. Scheving tekid hefir um Gudmund Bjarnáſon og Margreti Þorgeirsdóttur, í þeſſari ſøk, var leſid og markad lit. D: Liet ſvo Sýſlumadur E. Olafsſon uppleſa af ſama Þíngs-akt Sýſlumanns D. Schevings, dateradum ad Túngu vid Skutulsfjørd þann 2ann Martſí 1754, vitni Isleifs Sigmundsſonar, Snjólfs Vilhjálmsſonar og Bjarna Eyólfsſonar, af hvørra Anledníng Sýſlumadur E. Olafsſon uppáſtendur: ad Margret, ſem var einaſta qvennperſóna á bænum, og þar hjá kokkur og rádskona, hafi endilega ordid ad vera Þjófanna medvitari. Enn framar uppáſtendur hann: ad Løgmanns S. Sølvaſonar dómur verdi ad øllu leiti undirkenndur, og ſer dríúg ſkadabot tildæmd fyrir hans ofharda dóm. Þarámóti óſkar Løgmadurinn ad ſinn dómur, eptir framkomnum røkum og áſtædum, verdi, ſem rettvís og billegur, øldúngis ſtadfeſtur. Hins ſama beidiſt og Sýſlumadur M. Ketilsſon vegna Margretar Þorgeirsdóttur.



Partarnir sogdust ecki hafa meira fram ad færa, hvørs vegna sökin er til endilegs dóms upptekin, er' fiell svo látandi:

Jafnvel þó Margrétu Þorgeirsdóttur sé ecki yfirbevísud samvitund med þiófunum, Oddi Gudmundssyni, Bjarna Bjarnasyni og Jóni Magnússyni, þar enginn var á heimilinu, sem þar um kunni vitna, adrir enn þiófarnir og í sömu sök intereſſeradir, þá gefur þó hennar samqvæmi med þeim og medhondlun þeirra stolnu hluta grunsemd um hennar medvitund, jafnvel þó hún ecki, eptir lögum, kunni sem þiófur straffast; því dæmist rett:

Lögþíngis-dómurinn skal, hvad áhrærir peninga útlát af Sýslumanni E. Olafssyni til Margrétar Þorgeirsdóttur, í fullu gyldi standa. En þar Sýslumadur E. Olafsson er fyrir sína miklu yfirsjón í Dómara-verki í þessu sama máli og yfir sömu persónum, felldur til stórra bóta, svo kann hann nú ecki ad nýju fyrir sama Dómara-verk af þessum Rétti straffast, hvar fyrir Lögþíngis dómurinn er í þeim pósti, sem snertir hans embætti, upphafinn. Í Próseß umkostnad til Yfir-réttanna í

þessu

þessu máli, borgi Sýslumaður E. Olafsson til Margrétar Þorgeirsdóttur 10rdli. Krón., og skulu allar þessar bætur luktar til hennar heimilis innan nærstkomandi Michaelis messu, ella gjaldi fjórdúngi meira undir aðför og Exekútsíón. *Actum ut supra.*

M. Gíslason.

| | |
|---|---|
| B. Markússon. | O. Stephánsson. |
| B. Haldórsson. | B. Sigurdsson. |
| A. Jónsson. | P. Sigurdsson. |
| G. Runólfsson. | O. Schéving. |
| J. Arnason. | P. Axelsson. |
| P. Gudmundsson. | Haldór Axelsson. |
| Þorkell Þórdarson. | |



Anno 1758, þann 11ta Júlí var Rétturinn settur, undir Præsidió Amtmanns M. Gíslasonar, með undirskrifuðum Asessórum.

NUM.

# Num. I.

Liet Amtmadur M. Gíslason í Yfirrettinum upplesa Kóngs-bref til sín af 10da Júní 1757, med hvørju honum er bodid at foranstalte en Extra-rets Holdelse svo til lykta leidast kunni blódskammar-mál Jóns og Sunnefu úr Múla-sýslu; markad lit. A. Sýslumadur H. Wium mætir í Yfirrettinum, og qvedst ecki hafa kunnad fyrr ad innstefna þessu máli, søkum forfalla, jafnvel þó hann bar um af Amtmanninum advaradur verid hefdi, og sagdist því enganveginn ákjæra þetta sakarinnar uppihald; framlagdi svo Yfirrettar stefnu af 7da Júnis, med hvørri stefnist sakamadurinn Jón Jónsson og hans setti Talsmadur, ad mæta í Yfirrettinum, til ad svara til síns seinna barneignar-brots med systur sinni Sunnefu, og dóm heyra. Fyrir sama Rett er og stefndur Løgmadur S. Sølvason, ad forsvara sinn Extra-løgþíngis dóm, med vidara, er stefnan med ser ber, af vidkomendum uppáteiknud ad sied og lesid hafi, hún upplesin og mørkud lit. B. Sakamadurinn Jón Jónsson kom og í Rettinn, ásamt honum setta Talsmanni Sýslumanni J. Snorrasyni. Sýslumadur H. Wium framlagdi Extra-løgþíngis Prófess og dóm, genginn ad Ljósavatni þann 27da og 28da Sept. 1756, af Løgmanni S. Sølvasyni, í hvørs slúttníngu Sunnefu er tildæmdur neitunar-eidur, ad hún hafi ad líkamlegum losta samankomid vid Jón bródur sinn, sídan

þeirra

þeirra fyrra blódskammar-brot, og ad sami eidur skyldi ecki af henni takast móti Sýslumanns H. Wíums Prótesti, fyrr enn þar uppá væri kennt af ædra retti, sem sami þings-akt og dómur framar med ser ber, lesinn og markadur lit. C. Sýslumadur J. Snorrason framlagdi Amtmanns skickun til sín, ad gánga í Rett vegna sakamannsins, lesin og merkud lit. D. Sýslumadur H. Wíum framlagdi innlegg, hvar í hann uppástendur: ad sakamadurinn Jón straffist rett eptir hans egin medkenníngu, þad lesid og markad lit. E. Innlegg framlagdi Sýslumadur J. Snorrason, hvar í hann uppástendur ad Jón fríkennist, lesid og markad lit. F. Þar uppá svarar Sýslumadur H. Wíum: ad þared Sunnefa hafi ecki framkomid sínum eidi, þá falli Sýslumanns J. Snorrasonar ástædur af siálfum ser; en Sýslumadur J. Snorrason qvedur þad hafa orsakast af Sýslumanns H. Wíums Prótesti, ad Sunnefa fieck ecki eidinn aflagt, og kunni því eldúngis ecki ad veikja sínar ástædur. Sakamadurinn Jón Jónsson, af Rettinum yfirheyrdur, segist vidstanda sína medkenníngu fyrir Extra-logþíngis-retti á Ljósavatni, ad hann væri fadir ad því barni, sem Sunnefa systir hans sídar í heiminn fæddi. Adspurdur: því þessu barns-faderni hefdi svo optlega í mörg undanfarin ár, og fyrir ýmsum Rettum neitad? svarar: ad hann hefdi giört þad af heimsku og einfeldni. Meira qvádust partarnir ecki hafa ad framfæra undir endilegann dóm, er þannig var af Yfirrettinum afsagdur:

Jasic-

Jafnvel þótt Sunnefa Jónsdóttir, holdgétin systir Jóns Jónssonar, hafi fyrir Extra-logþíngis-réttinum ad Ljósavatni neitad, ad neindur bródir hennar væri fadir ad því barni, sem hún í heiminn fæddi árid 1741, og bodid sér eid þar uppá, hvørr henni var og tildæmdur, en vegna hennar innfallandi dauda ecki aflagdur, þá álítur þó Rétturinn, ad sakamannsins Jóns Jónssonar egin óneydd og stadfest medkénníng, bædi fyrir Extra-logþíngis- og þessum Yfir-rétti, ad hann sé fadir ad þessu barni, kunni ecki annars enn koma hønum til skada, og dæmist því rétt:

Sakamadurinn Jón Jónsson, sem eptir egin medkénníngu hefir ad nýju drýgt blodskomm med systur sinni Sunnefu Jónsdóttur, skal fyrir þessa, eins og ádur drýgda blódskomm med henni, straffast á lífinu og med øxi hálshøggvast; skal því Sýslumadur H. Wíum á þessu ári allraundirdánugast referera beggja saka-persónanna blódskammar-mál til Hans konúnglegu Hátignar, og innsenda til ens danska Kansellíis þá í málunum gengnu Yfir- og Undir-réttar doma rétt afskrifada og á Donsku útlagda, en bída med Exekútsjón á saka-mann-

mannsins lísi uns konúnglegrar Hátignar allranádugasta úrlausn er fengin.

*Actum ut supra.*

M. Gíslason.

B. Markússon. Þ. Stephánsson.
J. Olafsson. P. Magnússon.
S. Stephánsson. A. Jónsson.
G. Runólfsson. M. Kétilsson.
J. Eggértsson. L. Gudmundsson.
H. Jakobsson. J. Sigurdsson.

NUM. II.

Sama dag eptir middegi mætti í Yfirrettinum Magnús Philippusson, og framlagdi Yfirrettar stefnu af 16da Júlí 1757, med hvørri stefnist Løgmadur B. Markússon, til ad forsvara sinn yfir sækiandanum gengna Løgþíngis-dóm af 13da Júlí f. á. i einu skammar-orda máli; líka stefnist Sýslumadur P. Magnússon, sem dómari í Hieradi, og hofudpartar málsins, Jón Ísleifsson og Einar Oddsson, er stefnan framar med ser ber, lesin og mørkud lit. A. Jón Sigurdsson, settur Talsmadur Magnúsar Philippussonar, framlagdi Amtmannsins skickun þar um af dags dató, lesin og mørkud lit. B. Løgmadur B. Markússon mætir í egin persónu, en uppá þeirra innstefndu málsparta vegna Løgrettumadur Snorri Bødvarsson,

eptir



eptir framløgdum fullmøktum, sem vóru lesnar og mark, adar lit. E. og D. Løgmadurinn uppástendur ad svo framt sækjandi edur hans Talsmadur ecki framleggi í þenna Rett Løgþingis Próséssinn beskrifadann, svo verdi hann álitinn, ecki einúngis ad hafa tapad sókn málsins heldur og til ad svara ánægjanlegri skadabót til sín, fyrir óløglega innstefníngu til Yfirrettarins. Sýslumadur P. Magnússon uppástendur allt hid sama. Jón Sigurdsson uppástendur þarámóti: ad þár Magnús Philippusson hafi allraundirdánugast í fyrra súpplicerad ad fá Aktinn beskrifadann án borgunar, en engin úrlausn frá konúnglegri Hátign til landsins enn þá innkomin, en væntist þó med enum seinni skipum, því vonar hann ad søkin verdi uppsett til nærstkomandi árs Yfirrettar, og þeskvegna kunni honum engar sektir uppáleggjast á medan; því næst framlagdi hann Memorial til Amtmannsins med þessa uppáskrifudu atteste af 8da húsus, ad Magnús Philippusson, hafi í fyrra sókt um Beneficium paupertatis í málum sínum, en enginn úrskurdur væri þar um til sín innkominn; Memoriallinn lesinn og markadur lit. E. Partarnir adspurdir: hvort meira hefdu ad framfæra? svørudu nei: var því af Yfirrettinum afsøgd eptirfylgjandi Alyktun:

Magnúsi Philippussyni, sem hefir innstefnt þessu máli fyrir landsins Yfirrétt, en ecki kunnad ad framleggja Herads, og Løgþingis-dóma løglega beskrifada,

nda; frávísast Réttinum ad þessu sinni, þar til hann løglega innstefnir málinu ad nýju, og borgar sínum kontra-pørtum kost og tæringu, nefnilega: Løgmanni B. Markússyni 6 rdli., Sýslumanni Þ. Magnússyni 4 rdli., en Einari Oddssyni og Jóni Isleifssyni hvørjum fyrir sig 1 rdl., til samans 12 rdli. krón, sem hann skal hafa lukt innan narstkomandi Fardaga undir adfør og Exekútsión.

*Actum ut supra.*

M. Gíslason.

S. Sølvason. O. Stephánsson.
J. Olafsson. H. Wíum.
J. Snorrason. A. Jónsson.
G. Runólfsson. M. Kétilsson.
J. Eggértsson. L. Gudmundsson.
H. Jakobsson. Jón Høgnason.
Thómas Einarsson.



Annó 1759, þann 11ta Júlí var Yfir-rétturinn settur, undir Præsídió

Amtmanns M. Gislasonar, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti i Yfirrettinum Sýslumadur G. Runólfsson, og framlagdi Amtmannsins skickun ad gánga i Rett vegna Magnúsar Philippussonar, sem var lesin og merkud lit. A. Þar næst framlagdi hann Yfirrettar-stefnu, med hverri Lögmadur B. Markússon stefnist ad forsvara þad, ad hann hafi fráviísad sök Magnúsar Philippussonar, áhrærandi fíngurs-bit Einars Oddssonar, þar Magnús þó hafi sannad sín forföll, hvar fyrir hann ecki hafi i tima mætt i Lögþíngis-rettinum. Stefnan vidkomendum auglýst, var lesin og merkud lit. B. Lögmadur B. Markússon og Sýslumadur P. Magnússon, sem bádir eru stefndir, mæta i Rettinum, en sá innstefndi málspartur Einar Oddsson mætir ecki, nie nockurr hans vegna. Sýslumadur G. Rúnólfsson framlagdi Lögþíngis-aktinn i þessu máli, gengin þann 7da Júlí næstlidins árs, sem var lesinn og markadur lit. C. Uppástendur þar hjá, ad Magnúsar Philippussonar forföll fyrir Lögþíngis-rettinum framkomin, megi fyrir gyld álitast, og þess vegna fyrir Lögþíngis-dóminum fríkenndur verda, svo hann komi honum ecki til geinnar hindrunar. Lögmadur B. Markússon og Sýslumadur P. Magnússon uppástanda samegin-

eginlega hjer á móti Løgþíngis dómsins stadfestíngu, en Magnús verdi dæmdur í gyldar bætur. Þar Partarnir høfdu eckert meira fram ad færa, var málid til dóms upptekid og hann þannig eptir flestra adqvædum afsagdur:

Magnús Philippusson, sem innstefnt hafdi sínu bit-máli móti Einari Oddssyni, sem sækjandi, og Sýslumanni Þ Magnússyni, sem Dómara, fyrir Løgþíngis-rétti in 1758, en mætti hvørki sjálfur í tíma nè setti nockurn fullmegtugann í sinn. stad fyrir nefndum Rètti, heldur reisti frá fastalandinu til Vestmannaeyja naumum tíma fyrir Alþíng, og þó honum tilbodid væri, þá hann leksins mætti, ad hans mál skyldi fyrirtakast, ef hañ borgadi, eptir konúnglegri Tilskipun, 1 rdl. í Rèttinn, vildi hann hvørki ajalda þá sekt nè heldur innan laga-termíns innstefna ad nýju søkinni til þessa árs Løgþíngis, sem honum stód í frivilja, heldur hefi hann sjálfur vísvitandi og viljandi tradkad málsins framgángi; því dæmist rètt:

Magnús Philippusson skal hafa tapad þessa bits-máls sok og sokn móti Einari Oddssyni og vidkomendum, og borga til Løgmanns B Markússonar 4 rdli. krón., en til Sýslumanns Þ. Magnússonar 2 rdli. kron., innan

nærstkomandi Michaelis-messu, undir adfør og Exekútsión. *Actum ut supra.*

M. Gíslason.

S. Sølvason. J. Olafsson.
B. Haldórsson. B. Sigurdsson.
P. Jónsson. S. Sigurdsson.
D. Schéving. J. Snorrason.
H. Jakobsson. J. Eggertsson.
P. Axelsson. P. Gudmundsson.
S. Olafsson.

## Num. II.

Þann 12ta Júlí eptir middegi mætti í Yfirrettinum Sýslumadur G. Runólfsson, og framlagdi Amtmannsins skickun ad gánga í Rett, sem Aktor, vegna Magnúsar Philippussonar, lesin og mørkud lit. A. Þar nærst framlagdi hann Yfirrettar stefnu af 16da Júlí ens fyrra árs, yfir dómi Løgmanns B. Markússonar, afsøgdum þann 13da Júlí 1757, í skammarorda-máli Magnúsar, er stefnan framar sýnir, vidkomendum løglega byrt og í Rettinum lesin og mørkud lit. B. Eptir þessari stefnu mætir Løgmadur B. Markússon og Sýslumadur P. Magnússon, en uppá hinna annara vidkomenda vegna mætir Torfi Erlendsson, eptir skriflegri fullmakt af 12ta Júní nærsilidna, sem var lesin og mørkud lit. C. Var sídan upplesinn Løgþíngis Pró-

Próseß og dómur í þessari sök, af 13da Júlí 1757, í hvörs slúttníngu nefndur Magnús Philippusson er, fyrir tölud ærukreinkingar ord til Lögréttumanns Jóns Isleifssonar og Hreppstjóra Einars Oddssonar, dæmdur til fiölmælis bóta og sekta, samt málskostnadar, sem dómurinn framar sýnir, lesinn og markadur lit. D. Aktor framlagdi innlegg af dags dató til ad forsvara sök Magnúsar á mót ádurnefndum Lögþíngis- og Hjerads-dómum, sem hann beidist ad verdi linadir; Innleggid lesid og markad lit. E. Lögmadur B. Markússon uppástendur munnlega: ad ecki sjáist af Prósessinum, ad nefndur Magnús, þegar hann taladi þau ord, er málid afrís, hafi verid svo druckinn, ad ecki hafi vitad hvad hann gjördi og taladi, heldur hafi hann ridid og ferdast sama dag rett ad vild sinni; hann hafi heldur ecki gjört nockra löglega Erklæringu uppá skammaryrdin, og vonar því, ad sinn dómur verdi öldúngis stadfestur, og ser drjúg skadabót og kostnadur tildæmdur. Sýslumadur P. Magnússon refererar sig til sömu ástædna, sem framfærdar eru í innleggi hans fyrir Lögþíngisrettinum, sömuleidis Lögrettumadurinn Torfi vegna sinna Prinsípala. Ad sídustu framlagdi sjálfur Magnús Philippusson skriflegt Prótest undir dags dató, ad þessi sök verdi hjer tekin undir stadfestíngardóm, fyrr enn vitni sen í hjeradi afheyrd, er hann lætst vilja leida, lesid og markad lit. F. Málspartarnir adspurdir, einkum Magnús: hvört nockud meira hefdu



að framſæta? ſvorudu nei! var því ſvolátandi dómur í málinu af Yfirrettinum aſſagdur:

Sá í þeſſari ſok gengni Hérads og Løgþíngis Próſeſs, færir útþryckilega med ſér, ad Magnús Philippusſon hefir med þjófsnafni ſkiendt tvo ærlega menn, neſnilega Løgréttumanninn Jón Jsleifsſon og Hreppſtjórann Einar Oddsſon, ſamt géfid þeim virkilega þjófs-ſok, hvorja hann þó ecki hefir kunnad í nockurn máta uppá þá ad ſanna, því þótt þeir heſdu án Magnúſar, ſem egauda, vitundar, rádſtafad þeim horgemlingi, ſem hann vill ſikta þá fyrir, þá ſýna vitnin og Próſeſſinn ad þeir ecki brúkudu þar vid leyniléga eda þjófslega adferd edur til þeirra eginn ávinníngs, hefir ſvo Magnús ecki tilbærilega leitaſt vid ad rétta fyrir ſig med forláts bón, Erklæring edur tilbodnum bótum, ſem málsportunum væru antakanlegar fyrir utan Próſeſs. Ecki heldur er þad ſannad, ad nefndur Magnús haſi talad ádurneſnd Skjeldsord í þvílikum dryckjuſkap, ſem haſi hindrad brúkun hans vitsmuna, og kann því ecki dryckjuſkapurinn ad koma honum til afbotunar; því dæmiſt rétt:

**Magnús Philippusſon hefir, eptir landſins løgum og rétti, verdſkuldad ad fellaſt til þvílíkra ſekta, ſem Løgþíngis dómurinn af 13da Júlí 1757 í**

þessari sök, yfir honum genginn, uppá-
hljódar, hvørr Løgþíngis dómur hér med
ad øllu leiti er stadfestur, og eptir hans
innihaldi, svo vel sem og í krapti af
þessum Yfirréttarins dómi, borgi nefnd-
ur Magnús í sekt til Kóngsins 4 merk-
ur edur 5 rdli. 2 mk. krón., og í þau á-
qvørdudu fullrétti til Løgréttumanns
Jóns Isleifssonar 5 merkur, en til
Hreppstjórans Einars Oddssonar 4
merkur, þar ad auki í málskostnad til
vidkomenda 3 hundr. 60 áln. á landsvísu,
og fyrir ógrundad Appell til Yfirrétt-
arins borgi hann til Løgmanns B.
Markússonar 8 rdli. krón., til Sýslu-
manns Þ. Magnússonar 4 rdli. og
máls-partanna Løgréttu-manns Jóns
Isleifssonar og Einars Oddsson-
ar sérhvørs fyrir sig 2 rdli. Bæturn-
ar séu luktar ad 6 vikna termíni frá því
Magnús Philippusson heyrir dóm-
inn, undir þær sektir, sem login vid-
leggja í þessháttar tilfellum, en máls-
kostnadur til partanna innan nærstkom-

 andi

andi Fardaga, allt undir adfør og Exe-kútsión. *Actum ut supra.*

M. Gíslason.

S. Sølvason. O. Stepháusson.
J. Olafsson. B. Haldórsson.
B. Sigurdsson. P. Jónsson.
S. Sigurdsson. D. Schéving.
J. Snorrason. H. Jakobsson.
J. Eagertsson. P. Axelsson.
P. Gudmundsson.



Annó 1761, þann 15da Júlí, var Yfir rétturinn settur undir Præsidió Amtmanns M. Gíslasonar, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti í Yfirrettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi Yfirréttar stefnu af 19da Júli 1760, med hvørri stefnaft Løgmadur S. Sølvason og Olafur Jónsson á Eyri vid Eydisfjørd, til ad svara til sækjandans Irettesættelser og heyra væntanlegann dóm,

er

er stefnan framar sýnir, lesin og merkud lit. A. Eptir stefnunni mæta Løgmadur S. Sølvason og vegna Olafs Visi-løgmadur J. Olafsson. Þessu næst framlagdi Sýslumadur E. Olafsson Løgþingis Próféss og dóm genginn í málinu þann 8da Júlí 1759 og 1760, i hvørs slútningu Sýslumadurinn er dæmdur ad borga 60 lód sylfurs til jafnra skipta millum Kóngs og sakfóknara, og þaradauki 2 hundr. á landsvísu til Citantens í málskostnad; Próféssinn lesinn og markadur lit. B. Innlegg framlagdi Sýslumadur E. Olafsson af 14da Júlí, hvar í hann vill forsvara, ad hann rettilega hafi frávísad máli Fálkafángarans Gudmundar Jónssonar, sem Olafur á Eyri hafdi á móti honum, sem innleggid framar sýnir, lesid og markad lit. C. Annad innlegg af sama dató framlagdi Sýslumadurinn, sem eru hans Iretteſættelser móti Løgmannsins dómi af 1760, þad lesid og markad lit. D. Løgmadur S. Sølvason uppástendur: ad þær grundvallar ástædur, sem hans afságdi Logþingisdómur se bygdur á, verdi adgættar, og Sýslumadur E. Olafsson álitinn til sekta og kostnadar borgunar fyrir óvenjulegar Prætensiónir honum á móti. Visi-løgmadur J. Olafsson qvedst halda sig til þeirra í Aktinu innfærdu ástædna, bidur ad Løgdingisdómurinn verdi stadfestur og ser tildæmdur kostur og tæring. Meira søgdust Partarnir ecki hafa ad framfæra, var því af Yfirrettinum eptirfylgjandi dómur afságdur:

Það er ecki loglega sannað fyrir Hérads-rétti Sýslumanns E. Olafssonar að Súdavík, þann 29da Maí 1758, að Gudmundi Jónssyni Fálkafángara hafi sú stefna loglega birt verið, sem Olafur Jónsson á Eyri honum með stefndi þann 19da Aprilis s. á., ecki heldur er í þeirri stefnu nockurr viss dagur ákvedinn, einúngis er þarí tilteckid, að hann mæta skuli fyrir þeim venjulega Manntals-þings-rétti, sem á því vori af Sýslumanni E. Olafssyni haldast skyldi, hvorn Manntalsþings dag Gudmundur, sem ecki var búfastur í sókninni edur Sýslunni, ecki var skyldugur að vita, heldur Aktor honum að auglýsa. Hér uppá hefir þó Sýslumadur E. Olafsson lagt nefndum Gudmundi Jónssyni logdag til þess 3ja Júní, til andsvara og dóms í sokinni, en þó er ecki sannað, að sá logdagur hafi Gudmundi loglega byrtur verið, á hvorju þingi Sýslumadur E. Olafsson dæmt hefir, að á þeim degi kynni enginn dómur í málinu að affegjast að Gudmundi fjærveranda, úr Sýslunni burtviknum og aldrei loglega advorudum; að ollu þessu athugudu dæmist rétt:

**Olafs Jónssonar sókn og ákjærur fyrir Logþíngis-réttinum mót Sýslumanni E. Olafssyni, álítast ógrundadar, þar Sýslumadurinn hefir í þessu**

málí

máli hvörki gjört honum réttar-neitun eda réttar-spillir, og er; hann því fríkénndur fyrir þeim grófu Irettesættelser, sem Olafur Jónsson hefir fyrir Lögþíngis réttinum framfært og uppástadid Sýslumanninum á móti. Er svo Lögþíngis dómur Lögmanns S. Solvasonar í þessu máli, afsagdur þann 8da Júlí 1760, hér med upphafinn og fráfallinn. En þar Sýslumadur E. Olafsson hefir hvörki fyrir Lögþíngis- né heldur nú fyrir Yfir-réttinum stefnt edur uppástadid nockrar bætur af Olafi, kunna þær honum ecki ad tildæmast. Sömuleidis, þar Sýslumadur E. Olafsson hefir hvörki fyrr né sídar framfært nockrar sínar ástædur eda forsvar fyrir Lögþíngis-réttinum, svo álítur ecki þessi Réttur sanngjarnt ad dæma nockrar bætur í þessu máli af Lögmanni S. Solvasyni, sérdeilis þar Sýslumadurinn med gálausri adferd í Héradi hefir gefid nockra orsök þar til. Einúngis borgi Lögmadur S.

Sól-

Sølvason til Sýslumanns E. Olafssonar í Próíess kostnad til þessa Réttar 6 rdli. krón., sem luktir séu innan nærstkomandi Michaelis-messu.

*Actum ut supra.*

M. Gíslason.

B. Markússon. O. Stephánsson.
P. Magnússon. B. Sigurdsson.
B. Haldórsson. P. Jónsson.
J. Snorrason. M. Kétilsson.
G. Runólfsson. J. Helgason.
J. Sigurdsson. P. Gudmundsson.
J. Eggertsson.

## Num. II.

Þann 16da Júli fyrir middegi mætti enn á ný í Yfirrettinum Sýslumadur E. Olafsson, og framlagdi Yfirrettar stefnu af 24da Júlí 1760, med hvorri stefnist Løgmadur S. Sølvason til ad forsvara sinn affagda Logþingis dóm yfir Stanten, þann 12ta Júlí s. ár. Med sømu stefnu innkallast einnig Vísi-løgmadur J. Olafsson, sem sakarinnar vidkomandi, m. m. sem stefnan med ser ber, lesin og merkud lit. A. Vísi-løgmadurinn mætir í Rettinum, og mótmælir til sakarinnar ad svara Hákonar Jónssonar vegna, fyrst nefndur Hákon væri eki til þessa Yfirrettar stefndur, en honum

